Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

27. tbl. | Þriðjudagur 21. ágúst 1979. | 8. árgangur | verð kr. 150.



## 21. águst: Samstaða um aðgerðir



Sovéskir hermenn í Prag 1968.

Í ár hafa and-heimsvaldasinnar loks náð samstöðu um mótmælaaðgerðir í tilefni þess að 11 ár eru liðin frá innrás nokkurra Varsjárbandalagsríkja í Tékkóslóvakíu og veru sovéska hersins þar.

Innrás þessi vakti gífurleg mótmæli um allan heim og hefur síðan verið minnst víða með mótmælaaðgerðum þann dag. Strax og fréttist um innrásina var boðað til mótmælafunda fyrir framan sovéska sendiráðið í Reykjavík. Fylgdu þeim síðan fjölmargar mótmælayfirlýsingar samtaka og einstaklinga. Ein samtök studdu þó innrásina, en það voru MFÍK - menningar og friðarsamtök íslenskra kvenna, sem töldu innrásina illa nauðsyn.

Mótmælafundir lágu niðri í nokkur ár eða þar til KFÍ/ML boðaði til mótmælastöðu fyrir framan sovéska sendiráðið 21. ágúst 1976.

Þá þótti EIKurum sem þeim væri ekki gert nógu hátt undir höfði og boðuðu til sér mótmælaaðgerða. Keyptu þeir jafnframt auglýsingar og skrifuðu greinar í blöð með svívirðingum um KFÍ - allt í nafni eigin stuðnings við alþýðu Tékkóslóvakíu.

Fór svo að um 100 manns mættu í aðgerðir KFÍ/ML og EIKarar héldu mótmælastöðu á eftir undir einni regnhlíf.

KFÍ/ML dró þá niðurstöðu af aðgerðunum að leita þyrfti breiðari samstöðu næsta ár og var ákveðið að taka málið upp innan Samtaka herstöðvaandstæðinga. Féllst miðnefnd á að standa fyrir aðgerðum 21. ágúst 1977. Hefur það tvímælalaust orðið til að SHA hafa tekið upp harðari afstöðu til ~~sovétríkjann~~

EIKarar voru hins vegar enn sannfærðir um að þeir einir hefðu rétta afstöðu í þessu máli og réðust nú í blaðaskrifum sínum að SHA, - enn í nafni eigin umhyggju fyrir málstað tékkneskrar alþýðu. Gekkst EIK(m-l) fyrir stofnun 21. ágúst nefndarinnar sem stóð fyrir innifundi þann dag en SHA héldu mótmælafund framan við sovéska sendiráðið.

Árið eftir, eða 1978, virtist sá grunur loks læðast að EIKurum að allt þeirra klofningsbrölt væri ekki málstað tékkneskrar alþýðu til framdráttar. Sættust þeir þá á að styðja aðgerðir SHA þó ekki gætu þeir stillt sig um að hnýta í þær opinberlega í leiðinni. Mættu þeir í mótmælastöðu SHA framan við sovéska sendiráðið og héldu innifund á eftir.

Í ár hafa EIK svo ratað þá réttu leið er þeir fordæmdu KFÍm-l fyrir áður og starfað að undirbúningi 21. ágúst-aðgerðanna innan SHA. Fagnar Stéttabaráttan því að samstaða skuli loks hafa náðst og vonar að sá skaði sem klofningsbröltið olli, verði brátt bættur.

## Yfirgangsbrölt við Jan Mayen




Á undanförnum vikum hafa deilur íslendinga og norðmanna um Jan Mayen borið einna hæst allra mála. Margt hefur verið ritað og rætt um málið og sumt ágætt en annað af lítilli skynsemd. Það gegnir nokkurri furðu, að utanríkisráðherra hefur sýnt tvístígandahátt í þessu mikilvæga máli og jafnvel svo að stappað hefur nærri undirgefni við norðmenn.

Norðmenn gera kröfu til 200 sjómílna fiskveiði-og efnahagslögsögu umhverfis Jan Mayen. Slík krafa stangast ekki aðeins á við þá stefnu sem mörkuð hefur verið á hafréttarráðstefnum Sameinuðu Þjóðanna, heldur byggist á heimsvaldastefnu. Jan Mayen er óbyggð eyja, þótt Norðmenn hafi um nokkurt skeið stundað þar ýmis konar rann-

## Bandaríkin og landhelgin

Þrátt fyrir að almennt sé viðurkenndur réttur strandríkja til 200 mílna fiskveiði og auðlindalögsögu, gegnir ekki sama máli um landhelgi. Þessu var í talsvert ríkum mæli ruglað saman í umræðunum vegna útfærslu fiskveiðilögsögu Íslands í 50 mílur og síðar í 200 mílur. Landhelgi er annað og meira en fiskveiði og auðlindalögsaga. Landhelgi merkir alger yfirráð landsins yfir hafsvæðinu, jafnt með tilliti til siglinga sem auðlindanýtingar.

Þannig er landhelgi Íslands aðeins 12 mílur, en fiskveiðilögsagan 200 mílur.

Fimm ríki S-Ameríku og Afríku hafa hinsvegar fært landhelgi sína í 200 mílur auk þess sem fjölmörg ríki hafa 12 mílna landhelgi.

Augljóslega heftir víðáttumikil landhelgi siglingar þeirra ríkja sem hafa stóra flota um öll heimsins höf og einkum þeirra ríkja sem halda úti herskipaflota til að tryggja yfirráð sín í öllum heimsálfum.

Víðáttumikil landhelgi hefur þannig orðið flota Bandaríkjanna til trafala og Bandaríkin hræðast fátt meira en að fleiri ríki feti i fótspor þessara fimm, sem hafa 200 mílna landhelgi. Það myndi stórlega skerða athafna"frelsi" herskipaflota þeirra en hann gegnir einmitt þýðingarmiklu hlutverki í viðhaldi heimsyfirráða Bandaríkjanna.

Þess vegna kemur það ekki á óvart að Carter bandaríkjaforseti lýsti því yfir að bandaríkjamenn myndu hundsa landhelgi þeirra ríkja sem hafa tekið sér stóra landhelgi.




Bandaríkin ætla ekki að viðurkenna lögsögu ýmsra ríkja sem færa lengra en 3. mílur.

LEIÐARI

# Heimsvaldastefna Sovétríkjanna

Um þessar mundir eru liðin ellefu ár frá innrás herja Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu. Innrásin var gerð 21. ágúst 1968. Enn þá eru herir Sovétríkjanna í landinu og eiga að tryggja það að tékkneska þjóðin láti að vilja herranna í Kreml.

Fleiri þjóðir hafa á þessum ellefu árum fengið að finna fyrir yfirgangi sovésku heimsvaldasinnanna.

Með aðstoð ríkisstjórna nokkurra leppríkja sinna hafa sovésku heimsvaldasinnarnir lagt til atlögu við þjóðir í flestum heimsálfum. Af þessum leppríkjum eru Víetnam og Kúba athafnasömust.

Herseta rússneska hersins í Tékkóslóvakíu er að sumu leyti hliðstæð veru bandaríska hersins á Íslandi. Í hvorugu tilvikinu var þjóðin spurð um vilja hennar og í báðum tilfellum var það fámennur hópur innanlands sem tók ákvörðun um komu hersins.

Bandaríska og sovéska heimsvaldastefnan eiga sér fleiri hliðstæður.

Leiðtogar beggja ríkjanna hafa búið til hugmyndafræði til að réttlæta yfirgangsstefnuna. Bandaríski herinn er að vernda þjóðir heims gegn kommúnisma og styðja og styrkja hið sk. vestræna frelsi og lýðræði meðan rússneski herinn þykist efla þjóðfrelsi og sósíalisma.

Þrátt fyrir margar hliðstæður er eitt afdrifaríkt atriði sem er ólíkt ríkjunum.

Bandaríska heimsvaldastefnan hefur drottnað yfir sínum hluta veraldarinnar frá lokum annarrar heimsstyrjaldar og vill ekkert fremur en varðveita hið óbreytta ástand sem þýðir áframhaldandi bandarískt forræði.

Rússnesku heimsvaldasinnarnir eru hins vegar í sókn og vilja skipta heiminum upp á nýtt. Þeir hafa hrifsað til sín svæði sem bandaríska heimsvaldastefnan hefur orðið að hverfa frá. Besta dæmið um þetta eru lönd Suðaustur-Asíu, Víetnam, Laos og Kampútsea.

Meginstríðshættan stafar þess vegna frá Sovétríkjunum.

Enginn skyldi þó ætla að Bandaríkin gegndu þar með hlutverki friðarpostulans í heiminum.

Það er baráttan milli risaveldanna tveggja sem teflir heimsfriðnum í hættu. Þótt Sovétríkin séu hið árásargjarna og vaxandi risaveldi er það deginum ljósara að Bandaríkin munu ekki láta yfirráðasvæði sín af hendi baráttulaust.

Það er því gegn allri heimsvaldastefnu sem baráttan stendur.

# Minningarvaka um Pétur Pálsson



Myndin er frá minningarvöku um Pétur Pálsson sem haldin var í Félagsstofnun Stúdenta.

Fimmtudaginn 16. þessa mánaðar var haldin samkoma í Félagsstofnun stúdenta. Tilefni samkomunnar var að minnast tónskáldsins og ljóðasmiðsins Péturs Pálssonar, sem nýlega er látinn. Nokkrir herstöðvaandstæðingar tóku sig saman og undirbjuggu dagskrá með verkum eftir Pétur. Bæði var lesið og sungið efni úr ljóðabók hans Herfjötri og sunginn hluti úr Sóleyjarkvæði. Auk þess var flutt áður óbirt efni, m.a. hluti úr revíu.

Ef einhverjir lesendur skyldu ekki kannast við nafn Péturs, skal þess getið að hann samdi tónlistina við Sóleyjarkvæði Jóhannesar úr Kötlum. Mörg ef ekki flest verka hans fjalla um baráttuna gegn her og heimsvaldastefnu bæði hér og annarsstaðar. Því miður eru verk Péturs sjaldan flutt og njóta þeirra því færri en skyldi. Þeir sem rufu þögnina um listamanninn Pétur Pálsson með þessari vöku sýndu að hann og hans verk eru þess virði að þeirra sé minnst.

RAUÐUR VETTVANGUR
frá lesendum

RAUÐUR VETTVANGUR
frá lesendum

## *Hafa fleiri fengið gull frá Noregi en kratar?*

Fyrir skemmstu barði ég augum sáttmála einn sem gerður var í fyrra um Jan Mayen málið. Aðilarnir voru Einingarsamtök Kommúnista (EIKml) hér á Íslandi og Arbeidernes Kommunistiske Parti (AKPml) í Noregi. Innihald þessa tvíhliða samnings var á þá leið, að eignarhald norðmanna yfir Jan Mayen væri óskorað og enginn gæti gert kröfu til eyjarinnar eða lögsögu í kring um hana nema þeir. Jafnframt var þess getið, sennilega af umhyggju stóra bróður gagnvart þeim litla, að íslendingar mættu hafa 200 sjómílna lögsögu í átt að Jan Mayen. Aðaltilefni þessa sáttmála, sem gerður er langt áður en norskir og íslenskir kratar fara að stinga saman nefjum um málin, er ótti við yfirgang og drottnunarstefnu Sovétríkjanna á þessu hafsvæði. Nú er komið á daginn að slíkur ótti er langt frá því tilefnislaus, en hitt er athyglisverðara, að innihald sáttmálans er í stórum dráttum hið sama og tillögur Benedikts Gröndals í ríkisstjórninni og landhelgisnefnd. Viðurkenning á heimsvaldasinnaðri útþenslu Noregs á landgrunni Íslands og skýlausu broti gegn hagsmunum þriðja heimsins, auk ölmusuhlutverksins sem Íslendingum er ætlað. Það skyldi þó aldrei vera að fleiri hafi fengið gull frá Noregi en kratarnir okkar?

Lesandi.

1. AKP(m-l) og EIK(m-l) slá föstu að Jan Mayen sé hluti af Noregi. Ekkert annað ríki getur gert tilkall til Jan Mayen.

2. AKP(m-l) og EIK(m-l) styðja heils hugar þá meginreglu að hafsvæðum sé skipt eftir miðlínum, en risaveldin tvö og þá sérstaklega sósíalheimsvaldasinnar Sovétríkjanna berjast ákaflega gegn þessu.

4. Á sama hafsvæði hafa ýmis heimsvaldaríki, þar á meðal Noregur og risaveldið Sovétríkin, hafið rannsóknir í því skyni að leita að olíu. Rannsóknir benda til þess að þarna sé að finna olíu.

Verkalýðsstétt Noregs og Íslands verður að vera á varðbergi gagnvart pólitískum hrossakaupum ríkisstjórna landanna tveggja – á kostnað alþýðu Íslands. Ástandið getur gert norsku stjórninni kleyft að nota þetta mikilvæga hafsvæði til að þrýsta á aukið svigrúm til handa norskum einokunarauðhringum til enn meira arðráns á Íslandi. Gegn slíku munu AKP(m-l) og EIK(m-l) berjast og skoða sem afturhaldssama og heimsvaldasinnaða árás.

5. AKP(m-l) og EIK(m-l) munu hvetja allt framsækið fólk í báðum löndum til að mótmæla hverskonar heimsvaldasinnuðum hrossakaupum.

Úrklippa úr Verkalýðsblaðinu.



... í stuttu máli

### Sameining Þýskalands

Þýski stjórnmálamaðurinn Frans Jósef Strauss, sem talinn er afturhaldssamur, hefur boðið sig fram til kanslarakjörs.

Nýlega kom frá honum yfirlýsing um að ef hann næði kjöri þá myndi hann efla samvinnu við Sovétríkin með það fyrir augum að auðvelda sameiningu beggja þýsku ríkjanna.

Þetta gæti orðið upphaf þess að Evrópa yrði vettvangur átaka risaveldanna í ríkari mæli en nú er. Evrópa hefur búið við tiltölulega stöðugt ástand undanfarna áratugi en ljóst er að markmið heimsvaldaríkja er yfirráð Evrópu sem er mesti markaðurinn, auk þess sem mikil tækniþekking er samankomin þar.

Raunar er hér á ferðinni í nýjum búningi stefna Hitlers um sameiningu þjóðverja í eitt ríki. Arftakar Hitlers í Vestur-Þýskalandi gera sér grein fyrir því að þeir eiga hauk í horni þar sem nýju herrarnir í Kreml eru.

### Polisario vinnur sigra.

Þegar spánverjar yfirgáfu Vestur-Sahara skiptu nágrannaríkin, Máretanía og Marokkó, því á milli sín. Skæruliðahreyfing Vestur-Sahara, Polisario, hefur undanfarin ár barist gegn hernáminu.

Landið er auðugt af ýmsum verðmætum í jörðu.

Fyrr á þessu ári fór að bera á því að stjórn Máretaníu vildi draga heri sína frá landinu, enda hefur mótspyrna Polisario verið veruleg.

Fyrir skömmu afhenti stjórn Máretaníu Polisario þau landssvæði sem þeir höfðu hernumið. Þar með ræður Polisario helmingi landsins og stendur því vel að vígi gegn innrásarliði Marokkó. Stjónn Marokkó brást við þessu af hörku og hefur lýst yfir að hún muni hernema allt landið.

# Jafnrétti undir smásjá

Í Þjóðviljanum birtis nokkuð reglulega einu sinni í viku síða sem kennd er við jafnréttismál.

Ýmsir hafa séð um síðuna, aðallega félagar úr Rauðsokkahreyfingunni. Er saga þessarar síðu nú orðin nokkuð söguleg þó ekki sé hún ýkja löng. Strax frá upphafi var það ljóst að Þjóðviljamenn ætluðu sér einungis að bæta við fjöður í málfrelsis og þjóðfrelsishatt sinn með því að sýna lit og bjóða lesendum sínum uppá sérstaka jafnréttissíðu. Sjaldan hefur þó mátt mikið á því Mið-Engi. Jafnréttissíðan hefur jafnan verið rítskoðuð all nákvæmlega og ef eitthvað það hefur sloppið gegnum nálaraugað sem styggt gæti Alþýðubandalagið eða forsprakka þess, hefur málfrelsisliðið þar hafið upp mikið ramakvein. Er skemmst að minnast viðbragðanna gegn viðtali sem Jafnréttissíðan tók við Dóru Guðmundsdóttur. Þar lætur hún ýmislegt flakka misjafnlega alvarlegt, bæði um Rauðsokkahreyfinguna og svo það sem hljóp fyrir hjartað á ábyrgu alþýðubandalagsfólki: Hún gerði grín að forseta borgarstjórnar fyrir að vera borgaralegur. Fólk tók sig til í hrönnum að svara fyrir Sigurjón og harma það hversu blaðið og hreyfingin hefðu sett ofan við það að ein kona sagði þar sítt álit vafningalaust. Það er ekki pláss fyrir of miklar umræður í blaðinu.

Allir hafa líka heyrt þann orðróm sem verið hefur á kreiki og verkalýðsforinginn Guðmundur J Guðmundsson lætur sig hafa að lepja eftir, að síða þessi fjalli að mestu leyti um kynlífið. Í fyrsta lagi er þessi orðrómur rangur. Lausleg úttekt á efni síðunnar sýnir að mestur hluti þess efnis sem birst hefur á Jafnréttissíðu er um kjör verkakvenna, má þar t.d. nefna umfjöllun um refsibónus og úttekt á kauptryggingunni. Annar stærsti efnisflokkurinn mun vera skrif um börn og aðstöðu barna. Sá þriðji í röðinni myndi vera skrif um bókmenntir.

Hinsvegar er það útaf fyrir sig merkilegt hversu miklu fjaðrafoki þær fáu greinar hafa valdið sem birts hafa á þessum vett-

frh. á síðu 3.

# Barnaskapur marx-lenínista

**Dufþakur**

Þeim ætlar að ganga illa að læra af reynslunni þessum marx-lenínistum. Lengi hefur verið talað um nauðsyn sameiningar af hálfu KFÍml og EIKml, að vísu með ólíkum skilyrðum af beggja hálfu. Báðir aðilar hafa sakað hvor annan um villur í starfi, en EIKarar hafa þó verið aðgangsharðari í því að krefjast uppgjörs við fyrri vinnubrögð af hálfu annars aðilans.

Fyrr á þessu ári leit þó út fyrir að sættir myndu takast. Leynilegar viðræður voru hafnar milli aðila og var markmið þeirra að ná fram sameiningu. Af einhverjum ástæðum hefur verið ákaflega hljótt um þessar samningaumleitanir. Það er ekki fyrr en grein birtist í Verkalýðsblaðinu fyrir skömmu að lesendur hafa fengið einhverja nasasjón af gangi mála. Þar eru KFÍmlarar sakaðir um að hafa stöðvað viðræðurnar vegna þess að þeir kröfðust þess, að EIK-arar viðurkenndu þá sem fullgilda marx-lenínista. Sjálfsagt hafa KFÍarar sína sögu að segja.

Satt best að segja veit maður varla hvort beri að harma þessa sundurþykkju eða hlæja að henni. Vitaskuld er það aðhlátursefni hverjum skynsömum manni, þegar tveir smáhópar, sem byggja á sömu grundvallarstefnunni og eiga sér sameiginlega hugsjón, sem þeir hafa fórnað miklum tíma í, geta ekki sameinast í eitt afl, heldur halda áfram að rífast eins og smákrakkar. Þetta minnir á það, þegar greinarhöfundur ætlaði að taka dætur sínar með í 1. maí göngu. Báðar hlakkaði til að taka þátt í göngunni en gátu ekki komið sér saman um hvers eðlis hún væri. Önnur sagði að þetta væri kröfuganga en hin vildi halda því fram að hér væri um skrúðgöngu að ræða. Út af þessu varð hávaða rifrildi.

En svo að við snúum okkur að hinni alvarlegu hlið málsins, þá er það vissulega ekkert til að spauga með, að ekki skuli takast að sameina þessi tvö samtök. Því meir sem þessi tvö öfl rífast innbyrðis, því ver gengur að skapa hér raunverulegt forystuafl í verkalýðsbaráttunni. Á meðan blómstrar stéttasamvinnan og atvinnurekendur lifa eins og blóm í eggi. Með því að þræta um fræðilegar útlistanir hafa þessir marx-lenínistar verkalýðinn að leiksoppi, því hvað kemur honum við, hvort túlka beri tilvitnanir í frumkvöðlana á þennan veginn eða hinn á meðan kaupmátturinn fer rýrnandi og atvinnan minnkandi. Yfirhöfuð má gera ráð fyrir því að hinn almenni verkamaður "pæli ekkert í svona hlutum".

Það er líka skrítið, að þessir marx-lenínistar skuli ekki koma auga á nauðsyn sameiningar, þegar haft er í huga, að undanfarna mánuði hefur deyfð verið ríkjandi í starfi þeirra. Það ber lítið á þeim út á við og félagatalan virðist standa í stað. Án efa finnst mönnum það ekki aðgengilegt að taka þátt í félagsskap þar sem slík barnaleg viðhorf eru við líði.

Nú er það svo að sífellt stærri hópur er óánægður með forystu verkalýðshreyfingarinnar og þann flokk sem hefur hvað mest fylgi innan hennar - Alþýðubandalagið. En hvert á þetta fólk að leita? Til EIKml? Til KFÍml? Hvorugur kosturinn er góður. En ef tekst að sameina þessi samtök þá myndi þetta fólk vafalaust koma til liðs við þau í sameiginlegum flokki.

En kannski er þetta bara draumsýn. Eða í versta falli: Þurfum við að bíða þess, að þessi samtök deyji drottni sínum og ný kynslóð taki við, sem lært geti af hrapalegum mistökum fyrirrennaranna?

JAFNRÉTTI UNDIR SMÁSJÁ

frh. af síðu 2.

vangi um kynferðismál. Það mætti halda að stór hluti lesenda Þjóðviljans vildi ekki kannast við að kynfærin væru til, eftir allri hneykslaninni að dæma.

Það væri annars fróðlegt að vita hvað mælir á móti skrifum um kynferðismál? Í bæði Þjv. og öðrum blöðum birtast dálkar upp og niður um ýmis sálræn og heilsufræðileg mál, áhrif streitu á meltinguna, nauðsyn útivistar, áhrif lyfjanotkunar, hjartasjúkdóma, eiturlyf, offitu osfrv. En sá þáttur sálarlífsins og líkamssstarfsseminnar sem við köllum kynlíf er enn í banni. - Og þó var ekki eitt sunnudagsblaða Þjóðviljans auglýst upp á því að Steinunn Jóhannesdottir skrifaði um hengibrjóst og hristirassa? Er kannski bara bannað að tengja saman jafnréttisbaráttu og kynferðismál?

Það hefur löngum verið ein helsta iðja íhaldssamra "vinstri" manna að ákvarða það fyrir hönd kvenna hvað teldist frelsun þeirra til framdráttar. Ef fara ætti eftir þeim kokkabókum, yrðu konum nálega allar bjargir bannaðar. Það væri til dæmis alveg út í hött að tengja saman fjölskylduna, hlutverk hennar og stöðu kvenna. Slíkt fellur undir naflaskoðun og slíkar umþenkingar eiga best við innnan fjögurra veggja heimilinsins. Gagnrýni á "hreyfinguna" er sömuleiðis bönnuð. (Af skiljanlegum ástæðum.) Umræður um ofbeldi eru taldar óþarfar, ef það beinist gegn karlmönnum heyrir það ekki undir jafnréttismál og ef það beinist gegn konu er það ekki í frásögur færandi. Almenn þjóðfélagsumræða á ekki heima í kvennahreyfingu eða á kvennasíðu, þar á bara að tala um konur og börn.

Umræður um Jafnréttissíðuna í Þjóðviljanum hafa einkennst af þvi að vera ómálefnalegar og að snúast um aðra hluti en þá sem gagnrýnisverðir eru. Það hefur verið rakið fyrr í greininni að sú gagnrýni sem aðallega hefur beinst að síðunni, að hún fjalli ekki um rétta hluti, á ekki við rök að styðjast. Síðan hefur valið sér hin ýmsu viðfangsefni, sem er hárrétt, en það er annað mál að oft hefur pólitíkin ekki verið upp á það besta. Oft hefut gætt nokkurs þreytutóns í skrifum um kjör verkakvenna og að greinarhöfundur sjái þau úr nokkurri fjarlægð. Til dæmis um þetta má nefna grein um erfiðleika eldri kvenna á vinnumarkaðinum, þar sem að eins var rakið hið ömurlega ástand án nokkurs vonarneista. Hvorki á þessarri síðu né þeim næstu kom nokkuð fleira fram í þessu máli. Það væri óskandi að síðan væri meira hvetjandi í slíkum skrifum. Þetta hefur reyndar verið upp og ofan og margar góðar greinar hafa birst sem hafa haft sín áhrif.

Saga þessarrar jafnréttissíðu hefur sýnt að full þörf er á vaxandi umræðu um jafnréttismál. Margt af því sem skrifað hefur verið á hina frægu síðu er gagnrýnisvert, annað efni til frekari rökræðna og umræðu. Það er augljóst að ein síða í viku og varla það í flokksmálgagni einu hér í bæ, er hvergi nærri nóg til að vera vettvangur fyrir pólitísk skrif um kvennabaráttuna.

frh. af baksíðu

# Frjálshyggja og fyrirtekt

myndi sjálfsagt taka aukinni frjálshyggju eins og hverju öðru hundsbiti, alla vega meðan vinstri stjórnin er við völd. Hið frjálsa markaðskerfi hefur nú lotið stjórn sósíalistanna í Alþýðubandalaginu um nokkurt skeið og sér til fulltingis hafa þeir Framsókn og Krata, sem þeir kalla vinstri flokka, líklega til að láta líta svo út, að Alþýðubandalagið sé miklu betri vinstri flokkur en hundkratar og framsóknaríhaldið.

Og þrátt fyrir félagshyggju sósíalísku ráðherranna, sem gæla við hugmyndir um þjóðnýtingu og sameign í eigin málgagni hefur hinu frjálsa markaðskerfi reitt vel af. Fyrir því eru nokkrar orsakir, en sú helst, að landslýður er orðinn alls konar harðindum svo vanur, að hann lætur sig engu varða þótt hert sé að hálsi honum af opinberum aðilum. Íslenska þjóðin lifði af ógurlegar mannfellispestir, landskjálfta og eldhræringar, einokunarverslun danskra valdhafa og Brimarhólmsvistun um langar aldir. Og þá hafði hún sér það til málsbóta að hún fékk ekki rönd við reist og ekki valdi hún sér slík örlög. Það var engu líkara en þjóðin væri harðindunum svo vön að hún vildi ekki af þeim missa, þegar sjálfstjórn var loks beviljuð af danska valdinu.

Því allt frá sjálfstæði þessa lands, hefur þjóðin lagt sig í líma að kjósa yfir sig harðindi af opinberri hálfu og einsett sér að þola valdhöfum réttkjörinna ríkisstjórna sérhverja ósvinnu sem þeim þóknast.

Skyldi nokkur þjóð hafa hlotið jafn slæm örlög og hin íslenska hvað þetta snertir? Allt frá sjálfstæðistökunni hefur hver ónytjungurinn og dekurunginn af öðrum fengið víðtæk völd yfir atvinnuvegum þjóðarinnar, févana spilagosar og býlífisseggir hafa verið teknir upp á arma ríkisvaldsins og borgað undir þá skuttogara og frystihús, að þeir mættu sóa og sukka á kostnað hins vinnandi manns.

Skattfrelsi og ívilnanir hafa verið veittar þessum ölmusudrengjum getulausrar borgarastéttar til þess að þeir mættu óáreittir þurrausa auðlindir þjóðarinnar og láta fyrirberast á almannafé uns tilskilinn aldur tryggði þeim áhyggjulaust ævikvöld á almennu framfæri. Erfitt er að nefna nokkurn sérstakan, sem lengra gengur í dáðleysinu og sníkjulífinu en hinir, en þó má benda á nokkur dæmi.

K. Jónsson á Akureyri heitir maður nokkur, sem leggur óþekkjanlegar fiskafurðir í illa blandaðar lagnir og kallar lagmeti. Meira að segja sovétmenn, sem kalla þó ekki allt ömmu sína, fortóku að mata þegna sína á þessari framleiðslu og sendu hana aftur. Ekki lauk eiturbyrlunum þessa sérstæða fyrirtækis með því. Nú voru íslenskir límmiðar strengdir á dósirnar og reynt að koma þeim ofan í mörlandann og gilti þá einu hvað á dósunum stóð, því íslendingum hefur enn ekki lærst fullkomlega að lesa sér til um innihald fæðu sinnar, eins og aðrar siðmenntaðar þjóðir gera.

Með þessu hafði eitt fyrirtæki splundrað markaðshorfum þjóðarinnar og ónýtt gjaldeyrisöflun svo miljónum skiptir. En varla hefur skattfrelsið minnkað, né heldur opinber ölmusa látin niður falla til þessa fyrirtækis, alla vega ef þjóðnýtingarviðhorf hinna sósíalísku ráðherra fá að ráða.

Enn má til nefna olíubruðlið, þar sem einkaaðilar raka saman fjármunum á kostnað alþýðunnar og taka drjúgan nefeyri af þjóðinni. Olíumálaráðherrann Svavar Gestsson sem tíundað hefur þjóðnýtingarviðhorf sín opinberlega en þorir ekki að aðhafast neitt, kemur góðfúslega fram fyrir hönd olíufurstanna hjá Olís, Skeljungi og ESSO og tekur syndaaflausn þeirra úr vösum almennings. Ofan í kaupið kemur svo sú staðreynd að skammsýni og taumlaus fégræðgi íslenskra kapítalista hefur alla tíð glapið þeim sýn. Því meðan erlendir stéttabræður þeirra hafa haft sinn ágóða af eflingu véltækninnar og aukinni væðingu atvinnuveganna, hafa þeir hirt um það eitt að þræla íslenskum verkalýð út myrkranna á milli og gert landið að hálfdrættingi í framleiðslutækni. Hin duglega og óþreytandi alþýða hefur ekki sagt múkk, hafi hún úr nógu að moða en valið að öðrum kosti að flýja land fremur en búa undir harðræði og miðaldatækni íslensku borgarastéttarinnar. Það er mál að linni. Ónytjungarnir hafa sýnt að þeir valda ekki stjórnun og eflingu atvinnuveganna, þess vegna eiga þeir ekki að hafa hana á höndum. Borgarastétt Íslands er liðleskja sem vart á sinn líka í víðri veröld. Á Íslandi mætti reisa raunverulegt velferðarþjóðfélag þar sem auðlindir landsins væru nýttar af skynsemi og til hagsbóta fyrir allan þorra landsmanna. En áður en svo verður hljóta sníkjudýrin og pabbadrengirnir sem nú fá að ráðskast með atvinnutæki þjóðarinnar þótt þeir hafi aldrei sjálfir difið hendi í kalt vatn, að vera settir út í kuldann. Þjóðin hefur ekki efni á því að hafa slíka óværu á framfæri þegar alþjóðleg efnahagsleg kreppa er í uppsiglingu. Hið vinnandi fólk verður að takast á við vandann og leysa hann. En til þess þarf að skapa sterkt pólitískt afl, sem getur safnað fjöldanum saman og stuggað ónytjungunum brott.



Þegar í ljós kom að sandur sá er steypustöðvarnar á höfuðborgarsvæðinu var ónothæfur og hafði ollið gífurlegum skemmdum, beittu eigendur þessara stöðva fyrir sig verkbanni til að knýja fram leifi til að halda áfram notkun þessa sands. Gróði þeirra hefði og kannski hefur minnkað við að þurfa að flytja sandinn aðeins lengri vegalengd. Ekki hefur komið til tals að þeir bættu fyrir þær skemmdir sem þeir hafa valdið .



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
27. tbl. 8árg. 21/8 1979.



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.

# Yfirgangsbrölt við Jan Mayen



Loðnuskipið Sigurður.

sóknir. Eignarhald Norðmanna á Jan Mayen er líka vafasamt, en norska ríkið keypti eyjuna af kennara nokkrum sem slegið hafði eign sinni á hana árið 1927 og fengið eignarhald sitt staðfest af hæstarétti Noregs síðar.

Vitað er að fleiri þjóðir m.a. íslendingar árið 1927 gerðu kröfu til nýtingar Jan Mayen og auk þess fjallaði hæstiréttur í Noregi um eignarhald á eyjunni, eins og um deilumál um norskt jarðnæði væri að ræða. Af þessum sökum er eignarhald norðmanna á eyjunni alls ekki óbrigðult og byggir í raun á eignarnámi utan endimarka norska ríkisins, því Jan Mayen er ekki á norsku landgrunni heldur íslensku. Hafréttarráðstefnur Sameinuðu Þjóðanna hafa m.a. glímt við vandamál sem skapast hafa vegna eignarnáms iðnþróaðra og heimsvaldasinnaðra ríkja á eyjum og landsvæðum í eða við fyrrverandi nýlendur í þriðja heiminum. Eðli málsins samkvæmt, eiga og verða íslendingar að hafna norskum yfirráðum yfir þessu óbyggða eylandi. Viðurkenning á yfirráðum og rétti þeirra til efnahags-og fiskveiðilögsögu jafngildir í raun viðurkenningu á rétti stórra ríkja til að ganga á rétt smærri eða vanþróaðri ríkja. Lögsaga Noregs við Jan Mayen er ekki aðeins í bága við stefnu hafréttarráðstefnu S.Þ. heldur einnig andstætt hagsmunum smárra ríkja og fátækra yfirleitt í togstreitu þeirra gegn yfirgangi og drottnunarstefnu heimsvaldaríkjanna. Engin þjóð hefur rétt til að helga sér lögsögu kring um óbyggð eylönd, þegar um er að ræða eylönd utan landgrunns og söguleg hefð mælir gegn slíku.

Utanríkisráðherrann okkar lætur skammt stórra högga á milli og vísast væri hann ekki í embætti ef hann hefði ekki því láni að fagna að vera í þjónustu þjóðar, þar sem ráðamenn geta í skjóli klíkuskapar og óskammfeilni gengið langt út fyrir mörk hins sæmilega. Benedikt mun vera eini utanríkisráðherra heimsins utan hins bandaríska kollega síns, sem lýsti yfir velþóknun sinni á svonefndum "friðarsamningi egypta og ísraelsmanna" og þarf að leita langt til að finna jafn þýlega þjónslund undir herraþjóðina, jafnvel í íslenskri sögu. Hann á líka aðra rós í hnappagati sínu, þá að hafa ætlað að fylla götur og torg Reykjavíkur af bandarískum atvinnuhermönnum. Gætnari menn létu þó utanríkisráðherrann éta þann grautinn ofan í sig áður en varði. Og nú bítur þessi makalausi vingull hausinn af skömminni, með því að gangast við norskum útþensluhagsmunum. Vart er furða þó furðu lostnum áheyrendum renni í grun að ráðherrann sé að endurgjalda norskum krötum NATO-gullið sem veitt var til að halda Alþýðuflokknum á floti við síðustu kosningar, þvert ofan í þá uppdráttarsýki sem herjaði flokkinn og makleg má telja fyrir pólitíska stefnu hans. Vitaskuld er Benedikt hvergi brugðið og fullyrðir í viðtölum að hér sé bara um smávægileg skoðanaskipti að ræða innan ríkisstjórnar og landhelgisnefndar. Líklega hefðu flestir kosið að þegja í hans sporum. Tillögur Benedikts um viðurkenningu á rétti norðmanna til lögsögu við Jan Mayen og betlistaf til handa íslendingum í spurningunni um framtíðarveiði á þessum miðum, urðu þess valdandi, að Ólafur Ragnar Grímsson og Matthías Bjarnason hlupu í eina sæng. Hefur líklega þótt réttast að hafa engin vettlingatök við að reka tillögur utanríkisráðherra ofan í vélindað á honum aftur. En tillögur þeirra mátanna, Ólafs og Matthíasar, ganga þá að ýmsra dómi of skammt. Sameiginleg nýting norðmanna og íslendinga á miðunum við Jan Mayen myndi sniðganga bæði grænlendinga og færeyinga, sem báðir hafa hagsmuna að gæta í þessu tilliti.

## Samvinna N-Atlantshafsþjóða um nýtingu Jan Mayen miðanna.

Hið rétta í málinu virðist vera að N-Atlantshafsþjóðirnar, Ísland, Grænland, Færeyjar og Noregur myndi með sér samvinnu um nýtingu miðanna við Jan Mayen og skipti með sér störfum við verndun og veiðar á þessu svæði. Hér eru meiri hagsmunir í veði, en rétturinn til að skara sem mestan eld að sinni köku á yfirstandandi vertíð. Helst má skilja af umræðum um þetta mál að lífið liggi við, að íslendingum takist að verða á undan norska flotanum að láta greipar sópa um þessi fiskimið og þurrausa þau. Slíkt má ekki verða stefna stjórnvalda. Nauðsyn ber til að leggja áherslu á vísindalega verndun þeirra fiskistofna sem fást við JanMayen og hlutfallsskiptingu veiðanna milli þeirra ríkja sem hagsmuna hafa að gæta á þessu svæði. Hafréttarlega séð hafa trúlega engir rétt til að helga sér lögsögu á þessu svæði og skynsamlegast væri að flýta samkomulagi þessara þjóða með ráðstefnu þeirra á milli, áður en fleiri þjóðir og fjarlægari ganga í málið og gera kröfu til aðildar að nýtingu þessara auðlinda. Slíkar kröfur eru ekki langt undan ef dæma má af yfirlýsingu Novosti-fréttastofunnar um afstöðu rússa til þessa máls. Sovétríkin hafa sem kunnugt er sett fram þá stefnu að iðnþróuð og tæknivædd ríki hafi rétt til að nýta auðlindir þeirra þjóða sem ekki hafa bolmagn til að nýta þær sjálfar af eigin rammleika. Þessi afstaða er ekki annað en augljós drottnunar-og arðránsstefna, sem íslenska ríkisstjórnin verður að standa fast gegn. Í Staksteinum Morgunblaðsins á s.l. fimmtudegi er vakin athygli á orðalagi yfirlýsingarinnar frá Novosti-fréttastofunni, þar sem segir að Sovétríkin líti svo á "að þar til þriðja hafréttarráðstefna SameinuðuÞjóðanna hafi verið haldin, sé vart hyggilegt að stíga nokkur skref er leiða kynnu til aukinnar spennu á þessu hafsvæði."

Í þessari yfirlýsingu sovésku fréttastofunnar felst raunverulega hótun til Norðmanna og Íslendinga, að þeir semji ekki um málin sín á milli, því að það kynni að leiða til spennu. Greinilega skoða rússar þetta hafsvæði sem sitt a.m.k. verður ekki annað ráðið af yfirlýsingunni. Verður fróðlegt að heyra meira af fyrirhuguðum afskiptum Sovétríkjanna af þessari deilu og ef ekki verður brugðið út af vanda herranna í Kreml, má búast við hugmyndum um ráðstefnu risaveldanna með skjólstæðingum þeirra um málin.

# Frjálshyggja og fyrirtekt

Nú er mjög í tísku að tala mikinn um frjálst markaðskerfi og ólíklegustu menn hafa lagt sér þann óvana til, að kenna brask sitt við frelsið. Um það vitna fyrirtæki eins og Frjálst Framtak h/f, Frjáls Verslun, að ógleymdum uppreistarmönnum frá miðju, frjálshyggjumönnunum. Höfuðpaur hinnar uppáløppuðu frjálshyggju nútímans heitir sem kunnugt er Milton Friedman og hlaut hann Nóbelsverðlaun fyrir frjálshyggju í efnahagsmálum. Hann fór svo frjálslega með efnahagsmálin í Chile, að verðbólgan náði stjarnfræðilegu plani og Pinosjett og górillurnar hans urðu að auka atvinnuleysi um helming og lækka kaupið um helming, til þess að ná henni aftur niður á íslenska planið. Friedman lagði líka ísraelsmönnum frjálslega til, með þeim afleiðingum að verðbólgan er komin langt upp fyrir 100% og ein miljón manna hefur orðið að fara í verkfall til þess að vekja athygli valdhafa á því, að frelsi fólks til að draga fram lífið hefur stórlega verið skert þar í landi. Einhverra hluta vegna hefur Friedman ekki fengið að glíma við íslenska efnahagsvandann, enda er hér enn þá næg atvinna og ekki nema 50% verðbólga. Til þess er þó sárt að vita, því íslensk alþýða



Rannsóknir á lagmetisafurðum hefur leitt í ljós að hún (þ.e.s. framleiðslan er mjög gölluð og oft óæt.